Sigurður Breiðfjörð:

Indriða rímur ilbreiða.

Ak. 1856.

# RÍMUR

af

# Indriða ilbreiða,

kveðnar af

**Sigurði Breiðfjörð.**



Kostnaðarmaður:

**Jón Borgfirðingur.**

Akureyri 1856.

Í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins,

hjá H. Helgasyni.

## Fyrsta ríma.

*Skothenda.

**Þú skalt reyna fjaðraflug, fugl**inn hárs og vaka, þú skalt reyna dofinn dug, um dægra-mót að kvaka.

2. Þú skalt rísa og hefja hljóð, hætti nýja finna, meðan Ísa ekru þjóð, óskar söngva þinna.

3. Flytja munum forna skrá, fram í kvæða línum, ef sveitin unir siðug hjá, söngva hljómi mínum.

4. Meðan eyma bólmarbands, björkin kvæði metur, sögur geymast svellalands, sonum hálfu betur.

5. Íslands ríkja æran má, um það ræða þorum, Danir sníkja okkur á, eptir skræðum vorum.

6. Hingað leita allir að, elztu tíma fræði, geyma sveitum síðstu það, sögur og rímur bæði.

7. Heiður slíkan Ísland á, eflum hann og stoðum, greinaríka geymum skrá, gömul kvæði skoðum.

8. Okkar starfa að yrkja skrá, um æfi kappa hinna, nokkurn þarfa meta má, mennta hrós að vinna.

9. Þar að hefur hugað sá, hygginn reinir skíða, sem að stef um stutta skrá, stefnir mjer að smíða.

10. Meðan vinn að vísum hjer, og vekja nenni hljóðin, einu sinni enn hjá mjer, uni kvenna þjóðin.

11. Um dáfríðan yngismann, óðar lagist þráður, þeirra blíðu þiggur hann, þótt jeg verði smáður.

12. Mjer er gengið heimsins hól, og happadaga fengur, nú vill engin silkisól, Sigga verma lengur.

13. Þótt jeg stæli þjáða raust þeirra ást að brýna, æ! þær fælast efalaust elli og flösku mína!

14. Hugurinn meyjum hvarflar frá, hnígur flest að sínu, jeg vil feginn þylja þá, þátt í horni mínu.

---

15. Noreg rjeði vænn og vís, vakna þanninn kviður, æðstan meður alda-prís, Ólafur Tryggvaniður.

16. Fylkir trúi og fólkið þá, fram á borðum knarar, lá albúið landi frá, leiðangurs til farar.

17. Drengir knáir drukku fast, dúfum fram á borða, mikilátum brögnum brast bandið tungu og orða.

18. Eins og kvæðið um er gert, öls þar streymir fylli, margs kyns ræður brögnum bert báru sín í milli.

19. Um það vöktu sumir svar, samt þó milli bæri, hvort að öld um ekru þar, öll nú kristin væri?

20. Úlfur rauði efnir svar: álfa viður kjóla, málma hauður mæri var, merkis beri sjóla.

21. Hjer um grund við heilla þröng, hetjan tók að inna: ekki mundi leiðin löng, lýði heiðna finna.

22. Kongur frjetti korðagrer, kviknar svara vandi, munu eptir haldast hjer, heiðnir menn í landi?

23. «Fyrst að slaður fram jeg bar, fleina svarar bragi: veit jeg maður þrokir þar, í Þrándheims byggðar-lagi.

24. Indriða nefna ungan má, ilja — kallast — breiður, mesta efni manns er sá, mjög því veitist heiður.

25. Ókvongaður er með sveit, yfir burða fríður, enginn maður afl hans veit, íþróttirnar síður.

26. Situr að nægu föður fje, frjettir þannig spjalla, að álma frægur álfur sje, enn þá skírður varla.

27. Slíkt er skaði kongur kvað: kristni veit hann eigi, þú skalt hraða þjer á stað, þangað kanna vegi.

28. Kjóstu lið, sem þóknast þjer, þangað tírinn mækja, ber Indriða boð frá mjer, bráðum hingað sækja.

29. Jeg mun fara Úlfur tjer: yður verð að hlýða! mun þó varast mikinn her, með oss láta ríða.

30. Einkis neyða orðum hann, ollir skapið stóra, tek jeg reið að tjáðum rann, með tuttugu menn og fjóra.

31. Svo að landi fleytir fjöl, frægðar kappi mætur, tólf við strandar dælu dvöl, drengi eiga lætur.

32. Síðan hraðar leið um lóð, loksins bæinn finnur, úti maður mikill stóð, mjúka kveðju vinnur.

33. Áður kenndum Úlfi þá, Indriði sjálfur býður, í stofu venda og veizlu fá, vaskur fylgi lýður.

34. Dróg sig inn í dyra-jór dæstur hópur gesta, húsakynni há og stór, höfðu skrautið mesta.

35, Indriði brátt við Úlf svo tjer: áður bergi á miði, svo er háttað víst að vjer, víkjumst á að siði.

36. Bið jeg greini þú um það, því svo megi skilja, hvort að sveinar sumbli að, sitja hjá oss vilja?

37. Jeg mun kjósa Úlfur tjer: er það meira gaman, að við rósa-elfur hjer, allir búum saman.

38. Vanur dáðum vísir kær, við það skal jeg miða, af oss bráðum aptur þvær, ódaun hinna siða.

39. Indriði segir: mest jeg met, mjöð í flokki vina, svo að fleyi sækja ljet, seggi alla hina.

40. Verið allir velkomnir! vopna sagði njerður, byggið hallir þessar þjer, þægt á meðan verður.

41. Álfar stála eptir það, allir hornin spanna, fellur skála elfan að, andar löndum manna.

42. Ölfa-teitin ypptir sjer, allir glaðir verða, Indriði leita eptir fer, eyrindum þeirra ferða.

43. Eyrindin segir Ulfur þá: Ólafur kongur biður, þig um vegi fund sinn fá, frægðin báða stiður.

44. Veizlu bjóða vill sjer hjá, og vina sannar tryggðir, af því góða fregn þjer frá, fær um allar byggðir.

45. Indriði gegnir orðum þeim: jeg mun slíku svara, áður þegnar hjeðan heim, happasælir fara.

46. þegar rýkur ölið af, er því bezt að svara, þannig lýkur þegna skraf, þeir til sængur fara.

47. Að morgni hneigir málaklið, maktar bóndinn svinni, eyrindi þeigi á jeg við, Ólaf kong að sinni

48. Helzt jeg þakka heimboðið, háum gauti sverða, á mínu flakki og ferðum bið, fyrst þó láti verða.

49. Ef hingað sveima eyrindi á, æðstur stjóri ríkja, skal jeg heima og hvergi þá, heldur burtu víkja.

50. Vinur hans jeg vera skal, vinnist það

með góðu, þannig stansar þegna tal, þeir frá borðum stóðu.

51. Úlfur finnur sjóla sinn, sem þar beið í vörum, honum innir eyrindin, allt af kappans svörum.

52. Öðling biður Úlf að tjá, enn með fleiri hótum, tjörguviði traustum frá, trúnað hans og blótum.

53. Skynjum þeigi þetta vjer, þuldi sendiboðinn, en blóthús ei á bænum er, bílæti nje goðin.

54. Þengill svarar: þá er nær, þetta mál að flytja, jeg mun snar og flokkur fær fljótt um manninn vitja.

55. Einn í leyni Úlfur svein, Indriða bónda sendi, að flytja hreina frjetta grein, að fylkir þangað vendi.

56. Kongur annar ærið nú, inn á siglir fjörðinn, hundrað manna hefir þrjú, haflaþornar jörðin.

57. Lýðir fljótir landið á, leita af siglu-vara, Indriði móti öðling þá, með ærinn kemur skara.

58. Sýndi blíðu beztan keim, baldur loga víka, kongi býður hæstum heim, hernum öllum líka.

59. Veizlu þiggja buðlung bað, og beztra njóta fanga, hvergi styggist hinn við það, heim svo allir ganga.

60. Kongur sá og herinn hinn, háa stofu og langa, ekki má jeg óboðinn inn í hana ganga.

61. Um gáttir litast gesti ber, og glöggum augum trúa, ekki vita ókenndir, inni hverjir búa.

---

## Önnur ríma.

Valhending.

**Líklegt er að leiti hver til leifa** sinna, kominn er jeg í keng með penna, kvæðinn læt svo frá mjer renna.

2. Mína raust þó megi varla mönnum bjóða, enginn skal mig um það hæða, að mjer verði fátt til kvæða.

3. Mín ef enginn metur ljóð af meyjum hinum, yrki jeg þá fyrir eldri konum og útlifuðu kjerlingunum.

4. Ef mig vilja ungu fljóðin ekkert brúka, drembið get jeg látið líka, langt er frá jeg elti slíka.

5. Þá mjer flýgur þetta skraf í þungum huga, skilið þykist annað eiga, en ólundina af sólum veiga.

6. Hver hefir stúlkur hrósað ykkur hjer í

landi, mest og lengst um margar stundir, meðan voru blíðir fundir?

7. Hef jeg ekki haft við yður hræsni nóga, og lit af ykkur látið draga, lýsigulls um bjarta daga?

8. Hef jeg ekki hverja og eina hrokkin skinnu, fágað orðum menntar minnar, málað á yður sljettar kinnar?

9. Ef þjer viljið ama mjer og ólund senda, um jeg kynni vísum venda, varið þið ykkur slíkt má henda!

10. Þá vill koma skrattans skarð í skartið brúða, yður svo í orðum kvæða, ýmsir fara þá að hæða.

11. Okkur heldur ætti að koma öllum saman, en að tengja ást og gaman, þó ögn jeg taki að grána í framan.

12. Svoddan kostum sætur bið jeg sjálfar ráða, vini skal jeg vitrum bjóða, vísur þær, sem nú jeg ljóða.

---

13 Buðlung þegar beztur kom að bóndans garði, háa þó að hýsing furði, heima maður konginn spurði.

14. Þóknast yður þiggja vist í þessum ranni, meðan dvelur mengið stinna, mjer skal annað hæli finna.

15. Af því hjer á okkar bæ er annar siður, að þessi drekki þjóð með yður, þykir kann ske fara miður.

16. Svarar kongur sjálfur byggðu salinn háa, landtjöld mun jeg láta búa, og lifa þar með hernum trúa.

17. Þú skalt okkur fæðu fá og föng að vilja, einatt meðan óskum dvelja, á sig kvaðst ei hinn það telja.

18. Síðan kongur setti tjöld hjá sal óringum, veizla hófst með vænstu föngum, vínið súpa bragnar löngum.

19. Fyrsta dag sem vínið vökvar virða alla, Indriða lætur kongur kalla, koma í tjald og við hann spjalla.

20. Kempan þá að konungs tjaldi kreika rjeði skrýddur rauðu skarlats klæði, skörulegur og fríður bæði.

21. Silkihúfu setta bar með sólu brunna, gullhlað hafði greipt að enni, göfuglegur undir henni.

22. Frægðar kapinn fegurð bar af flestum mönnum, rjettvaxinn með rauðum kinnum, rósir lýstu af hvarmatinnum.

23. Hring hann bar á hendi sinni harla dýran, ungan svein á armi bar hann, auðkenndur af mönnum var hann.

24. Kurteis þannig kom í tjöld og kvaddi sjóla, við hann náði vísir tala: velkominn sje ráður sala!

25. Þótt jeg hati hús og drykk með heiðnum fyrðum, vertu samt að vorum borðum, við skulum skipta fleiri orðum.

26. Sikling nærri sezt á stóli seggur vitur, og á lærið sveininn setur, sjóli þannin talað getur.

27. Vissi jeg ekki vænni mann í virða skara, ef íþróttir þar eptir fara, afbragð tel jeg kappann snara.

28. Vænsti skyldi virta maður villu sneiðast, skaparann læra að þekkja og þíðast, þjer má ekki heiðni líðast.

29. Kynntu oss ef kværtur ertu', en kappinn neitar, áttu sjálfur sveininn hvita? sjóli spurði geymir ríta.

30. Ekkert herra á jeg barn hann orðin þýðir, systur minnar sonur það er, sem jeg vildi reynast faðir.

31. Hefirð' ekki hof á bænum? hilmir frjetti,

kappinn þessu nýtur neitti, en niflun aptur svörum beitti:

32. Hvaða trúnað hafa þykir hetjan nýta, ef heiðinn ert með heimsku ljóta, hirðir ekki samt að blóta?

33. Heimskulega hlýt jeg yður herra svara! ansar baldur óma skara, með engan trúnað kan jeg fara.

34. Goðin ekki geðjast mjer að gagn oss vinni, ófríðari og máttar minni, mjer eru þau í tegund sinni.

35. Hverju veldur? hilmir tjer: að himna tiggja, átrúnað vilt ekki þiggja, á hans mátt og gæðsku byggja?

36. Veldur því að vísu tvennt nam vitur inna, enginn kom í okkar ranna, almátt hans að kenna og sanna.

37. Einnig fyrst að ættar trú jeg eyddi minni, lofaði jeg í sama sinni, síður þá að skeyta hinni.

38. Sikling spurði sína menn ef satt það væri, að þeir kristni ekki bæri, að hans boðum þar á Mæri?

39. Um þær mundir seggir segja: svinnur

drengur, hernað sótti hörku fengur, hann að finna gleymdist lengur.

40. Hefirð' ekki hilmir spurði halinn fríða, heyrt að marga hitti voði, sem hafna mínu kristniboði?

41. Heyrt að sönnu hef jeg það, kvað hetjan kæna, en hvergi finn jeg hugan brýna, hræðast minn við refsing þína.

42. Hlíta mun með hótun enga hjer að fara, jeg skal núna augljóst gera, engra mun jeg kúgan bera.

43. Mjer er ei svo manna fátt það máttu vita, að nauðugur jeg nenni lúta, ef niflung hreifir efni súta.

44. En ef kongur ekki sýnir úlfbúð neina, með alúð vil jeg allri þjóna, æðstum stýrir Noregs fróna.

45. Jeg mun vilja engum breyta eigin vana, en sjálfráður um siði og trúna, sífelt vera eins og núna.

46. Djarfur muntu dögling tjer: við drengi smærri, ræða vor um þetta þverri, þó er sinn á meining hverri.

47. Jeg vil hefja annað mál sem allir sanna,

íþróttir mun ærnar kunna, ungur tírinn ljósa brunna.

48. Indriði mælti: yður satt það er að greina, íþrótt kann jeg ekki neina, ef jeg skal til hlítar reyna.

49. Jeg er maður ungur enn að aldri og viti, æskan leið í leik og kæti lærði jeg sízt er stoðað gæti.

50. Satt þú mættir segja oss nam sjóli tala, og íþróttirnar ekki fela, enginn vill þær frá þjer vjela.

51. Indriði þau orðin móti aptur hnegir, er að sönnu öðling frægi, áleitinn í meira lagi.

52. Enga mundi íþrótt kalla öldin ríka, þó jeg sæi á sundi leika, sveina forðum burða veika.

53. Segir kongur sjálfhælni jeg sje þú varast, sannleik muntu samt frambera, sjá skal maður fyr en gera

54. Eða hverja íþrótt muntu aðra telja? Indriði kvaðst ekki skilja, andsvör kongi rjett að þylja.

55. Ungur boga á jeg tók þá aðrir sveinar, íþrótt sem að æfðu hreina, örfa reyndu flugið beina.

56. Vera má að vaskur drengur, vísir segir: þar sem álmur boga beygir, beint í fyrstu skyti eigi.

57. Íþróttina einnig þriðju áttu nefna, svarar þeim er saddi hrafna, svipgeiguður loga drafna.

58. Orð mín takið ærið frekt í okkar spjalli, sízt er hægt þó sagnir stilli, að sigla skers og báru milli.

59. Eins jeg veit að íþrótt litla í því sjáum, að handsöxum jeg henti smáum, hvergi samt með þrótti knáum.

60. Iðnin flesta eykur mennt, kvað öðling svinnur, far þú hjeðan heill að sinni, hef jeg fagnað-skemmtun þinni.

61. Málið beggja maktarkappa mundi linna, út úr tjaldi öðlings svinna, Indriði gekk til manna sinna.

62. Líka mun jeg læðast út úr ljóðatjaldi, og í það koma aldrei skyldi, ef Indriði mínu dæmi fylgdi.

---

# Þriðja ríma.

Hálfdýrt stikluvik.

**Hrannar glóða vitrum ver, ef vildi** kvæðin tóna, aptur bjóða bragi fer, bifast ljóða strengirner.

2. Lóna daga sólin sjer, sem jeg skemmti forðum, fríð að laga fræðakver, fer að draga senn úr mjer.

3. Minnar æfi örlög stríð, ýmislega farin, meiða gæfu en magna kíf, meðfætt svæfa hugar líf.

4. Fjörugt áður fljóðunum, færði mærðar smíði, hafði dáð með hljóðunum, hópa skráði af ljóðunum.

5. Einatt sniðugt óðarraus andinn treindi ljóða, fjekk að iða eirðarlaus, aldrei friðarstundir kaus.

6. Ljek á glóðum líf og blóð, lífið kíf ei snerti, dýrust fljóð er deyddu móð, dönsuðu ljóða kringum bjóð.

7. Nærfellt öllu nærri stóð, náðu kvæðin skemmta, var sem fjöllin fengju hljóð, og færu snjöll að sýngja ljóð.

8. Yndis ljósin lifðu þá, látum kátum meður, fjekk jeg drósir faðminn á, fleiri en Rósu, meir en já!

9. Nú þótt hljóðin felli fín, og fjöri gjöri hnigna, viðu glóða græðis hlín, gömlu bjóðast kvæðin mín.

10. Jeg má sáttur senn í stans söngum þröngum leika, um fjórar áttir fannalands; flytur háttur kveðandans.

11. Mitt þá enginn óðarblað, eyrum heyrir fremur, mun þá genginn moldum að, marka drengir skulu það.

---

12. Daginn annan aptur þá, Indriða kalla lætur, hirðir manna húsum frá, hetjan vann í tjaldið gá.

13. Ræsirs hýra ræðan sú, að ríkum víkur kappa, viltu dýra virða trú, vel og skírast láta nú?

14. Hvikull sízt er hugur vær, hinn það vann til svara: svo er víst um sagnir þær, sama lízt mjer og í gær.

15. Jeg hef grundað okkar kjör, íþróttirnar reyna, skaltu sunda sólarbör, við sverðalunda í vorri för.

16. Ef þig buga yfir kann, einn af mínu liði, trúardug skalt taka þann, með traustum hug á skaparann!

17. Ef þú ber með íþrótt sjálfs, af þeim stafi korða, skaltu vera frí og frjálfs, fleinagrerinn þessa máls.

18. Enga þorðum, ungur tjer, íþrótt mjer að telja, en dýrt er orðið drottins hjer, dóminn skorðað hafið þjer.

19. Ef kúgun þín ei kemur að, kjörum verðið ráða, framt jeg sýnast fæ við það, að finna mínum orðum stað.

20. Hætta má þess hvernig fer, hlýðni yður sýna, en hver er sá í móti mjer, mætast á af brögnum hjer?

21. Kongur svara vann í vil, vænum reynir hlífa, svo vjer þar á sjáum skil, sjálfur fara mun jeg til.

22. Þótt annar vinni af hinum hjer, höldur í snildar leiki, vansi minni verður þjer, ef við ei kynnir standast mjer.

23. Indriði spjalla aptur fer: ei þarf slíkt að reyna, þó kynni jeg allar íþróttir, yrði' jeg varla líkur þjer!

24. Öðling hneigir orðin ber, allvel kalla jeg fara, að þú segist unninn hjer, áður megin reyna fer.

25. Kostur lengi á því er, Indriði greinir fríður: þó sæu drengir samfarir, sem að þengill býður mjer.

26. Sels til vakar sækir þjóð, sjóli og halur dýri, áls við þak með engan móð, af sjer taka klæðin góð.

27. Leggjast síðan landi frá, lista þystir næsta, höndum sníða ljetta lá, leiki fríða reynast á.

28. Hver nam annan hrekja á kaf, handa mundu njóta, hvorugur vann þó öðrum af, áls um rann, nje hvíldir gaf.

29. Síðan báðir sjer í lá, sökktu snöggt að botni, fólkið náði furða þá, fleina-ráða ei lengi sjá.

30. Óttast mundi atburð þann, öld við keldur síla, heila stundu hvorugan, hringalundar sáu mann.

31. Unz um síðir Ólafur, allrar snilli mestur, af því stríði örmæddur, upp á skríður björgin þur.

32. Flegir mæði fram við sjó, frækinn ríkja vörður, enga ræðu ýtum bjó, ekki klæðast vildi þó.

33. Enginn veit um afreksmann, Indriða stundu langa, loks þó sveitin líta vann, lóns um reiti kemur hann.

34. Hefur frícan fengið þá, farar-beinann skjóta, skaptagríðar grímur sá, - gransel ríður miklum á.

35. Í kampa heldur honum á, hróðugur báðu megin, stjórn hann veldur þannin þá, þjakast hreldur kobbi má.

36. Af baki datt ei hetjan hót, hestur dæstur verður, stefndi hratt að foldar fót, fylkir spratt þá honum mót.

37. Lagðist móti hann á haf, hildar snildar kappi, hjálmanjótinn keyrði á kaf, kobbanum skjótast fór hann af.

38. Næsta lengi niðrí lá, njótar spjóta voru, loksins mengi lofðung sjá, að landi gengur honum þá.

39. Indriði fríður áls á bekk, ærið særist mæði, kongur blíður bjargað fjekk, brims úr hríðum stirðum rekk.

40. Aptur klæðast ýtar þá, æða blóðið heitti, kongur ræðir: meir ei má, mann á græði engan sjá!

41. Gaf þó beggja gæfan trú, get jeg betur fara, menn það leggja í minni nú, miður seggur reyndist þú!

42 Andsvör getur gefið stillt: grímur skýmu óma, þjer mun betur þykja skilt, þetta meta sem þú vilt.

43. Á næsta degi er byrtu brá, af beði lýðir fara, kongur segir: þjóðin þá, þeirra megi skotin sjá.

44. Þá Indriði þylja vann: þó jeg sæi skotið! til við yður atburð þann, öllu miður reyna kann.

45. Orðin hneigir aptur hinn: ála sólar bragi, ef þú segist uppgefinn, að því þegi grand jeg finn!

46. Þar mun síðar tími til, talar halur frægi, fyrir blíðu vísirs vil, veita lýðum gamanspil.

47. Þar sem frægi fylkir þjer, fýsir kjósa heiður! veit jeg hlæja munu að mjer, mána ægirs tírarnir.

48. Á skóginn flakka skammt sem var, skatar hvatalega, kastar frakka kongur snar, kom í bakka spæni þar.

49. Langt úr máta lofðung þá, lætur skotmál vera, síðan kátur boga brá, baldur gráta freyju sá.

50. Spóninn hæfa hilmir vann, hvatur ut-

anverðum, hinn sem gæfu flesta fann, fór að æfa leikinn þann.

51. Boga iðju beita vann, betur getur skotið, nærri miðju hæfir hann, hremsu þriðju kongur fann.

52. Boga kænum brá á lóð, bragna tignar mestur, bíldan væn frá rítarjóð, rjett í spæni miðjum stóð.

53. Allir hæla höldar þá, hara snara skoti, Indriði mælir: er það sá, eptir stæla hratt jeg má!

54. Aptur spjallar Ólafur, eiðir viður rita, vel skal kalla ef vigrabur, vill nú kallast sigraður.

55. Hinn kvaðst meina hann um skammt, hætta mætti þessu, bíldu eina áður samt, jeg vil reyna að senda framt.

56. Svo ólinur boga brá, bíldu mildings eptir, stála-hlinur stefndi þá, í strengraufina hinni á.

57. Þar sig festi falur mjór fífur skrúfar saman, undrar flesta íþrótt stór, öðling hrestur tala fór:

58. Frægðar mann ei meiri fann, á moldu

aldrei búa, víst má sanna hrós um hann, heims um ranninn gjörvallan.

59. Ei að síður viljum vjer, vinur reyna betur, sveininn fríða er fylgði þjer, færi lýðir hingað mjer!

60. Að skotspæni höfum hann, hjer að vjer að búum, hlínar rænan mennta mann, móð í rænu húsi fann.

61. Tíðum hrokinn meira má, meinlaus reynir skaða, þar er lokin þriðja skrá, og þanki strokinn hjeðan frá.

---

## Fjórða ríma.

Hálfdýrt stuðlafall,

**Óðins hrafnar árla jafnan mínir,** flugið þreyta framvísir, frjetta leita og bera mjer.

2. Mjer þeir blund um morgunstundir banna, opt til baga eru þá, yfirklaga því jeg má.

3. Þeirra slaður þrástagað að heyra, mætti löngum leiðast mjer, ljótur söngur beggja er.

4. Þótt jeg eigi þessum megi hrósa, hvorugan samt jeg missa má, mjer er tamt að nota þá.

5. Annar heitir Hugi breitinn næsta, hann er iðinn áleitinn, en þó við mig smáskrítinn.

6. Augun mörgu á því fjörga dýri, blundur síður byrgja má, bezt þau víða í myrkri sjá.

7. Hvergi næði hann á svæði festir, laus og hvikull löngum sjest, líka svikull, það er vest.
8. Mjer óhlýðinn mest hann víða flýgur, við hann ráða vandi er, værð og náð því tínist mjer!
9. Heitir Muni, hinn sem unir betur, opt hann heima hjá mjer var, helzt er sá til skemmtunar.
10. Einn hann geymir allt sem heim þeir bera, vænt um greiin þætti þá, ef þessu eigi tíndi sá.
11. Ef jeg rugla um þá fugla meira, fer að leiðast fljóðunum, er fýsast greiða af ljóðunum!

---

12. Bragnar síðan sveininn fríða leiða, út úr vænu ynni þar, að skotspæni hafður var.

13. Í hvirfil sveini síðan eina töflu, sikling biður setja þá, svo Indriða við nam tjá:

14. Töflu skjóta tírinn klóta reyni, burt úr hári hauður á, hann þó sár ei verða má.

15. Þú mátt sjálfur sagði álfur korða, fimleik reyna þinn á því, þangað fleini jeg ei sný.

16. Vittu það ef vinnur skaða sveini, huga frækinn hef jeg á, hefna rækilega þá!

17. Dúk af líni dögling fínu tekur, sá er fleini hrinda hjet, um höfuð sveini binda ljet.

18. Tvo menn valdi til að halda endum, höfuðið ei svo hrærast má, þó hvína megi örin blá.

19. Þá nam signast sætistignar vörður, kross fyrir örfar oddinn brá, að svo gjörðu skaut hann þá.

20. Indriði stóð af andlitsblóði rauður, öðling hjá er örin fló, eitthvað þá í skapi bjó.

21. Töflu undir örin mundi fljúga, hana setti aptur af, undrun þetta mörgum gaf.

22. Hvirfli á var eins að sjá og dreirði, við Indriða vísir tjer: víst jeg bið þú skjótir hjer!

23. Systirin góða seggsins móðir líka, boga sveigir bezt með skil, báðu ei að ganga til.

24. Hann við sjóla hygginn ól svo ræðu, það jeg hræðast hvergi vil, hjer þó næði ganga til.

25. Sízt að meini mundi sveini verða, þó skal ei í þetta sinn, þungan sveigja boga minn.

26. Þengill tjáði: þar af ráða verðum, að unnið líka jeg þjer frá, íþrótt slíka hafi þá.

27. Indriði segir: um það megi dæma, svo sem vilji sjóli enn, sjá og skilji fleiri menn:

28. Á mig hallað hjer jeg kalla fremur, um nær mundir mæla þú, mjög um stund og líka nú.

29. Víst jeg hallað hefi spjallar sjóli, þegninn frægi en þekkja skalt, þjer í haginn samt ávalt!

30. Til bæja og tjalda bragnar halda síðan, kongur bæði og kappinn þá, kætast flæði mjaðar á.

31. Ðaginn þriðja þá Indriða finnur, niflung sjeði og náði tjá, nú er veður fagurt á.

32. Handsaxanna höldar kanni leikinn, báðir ranni feta frá, fjöldi manna líka þá.

33. Söxin tvenn, þeir síðan spenna báðir, í loptið nenna ljetta þeim, leika senn í höndum tveim.

34. Þannig lengi leikast drengir viður, mátti enginn milli sjá, um mennta gengi beggja þá.

35. Söxin þrjú, tók sjerhver nú að reyna, járnið beitt um jálka mar, jafnan eitt á lopti var.

36. Meðalkaflann mjúku afli henda, fimni slíka furða má, fólkið ríka til er sá.

37. Enginn sveina á því grein má kunna, hvorjir ljettast leiki geir, lengi þetta reyndu tveir.

38. Þá nam gramur gæfusamur tala, betur reyna verðum vjer, viður fleina leikinn hjer.

39. Því til strandar þundar randa fara, undan landi og út á mar, aski banda róið var.

40. Gilfi knár þá gjekk á árarblöðum, næsta liðugt líðir sjá, ljek hann miður ekki þá.

41. Átti göng með endilöngu borði, henda nemur sjóli sá, söxum þremur lopti á.

42. Indriði líka íþrótt slíka vinnur, söxum iðinn ypptir sá, ekki miður en landi á.

43. Annað sinn, þá öðling vinnur ganga, sömu leið og söxin ber, sáu skeiða tírarnir.

44. Fyrir stafnin fram á hrafni ranga, gengur líka gilfi þá, gljúpu díki ránar á.

45. Sagan vottar svo að drottni ríkja, leik ei hnignað hafi þar, og hvergi dignað fæturnar.

46. Aptur þá með árum náir ganga, inn í skeið sá afrek vann, Indriði beið um tíma þann.

47. Kongur við hann kemur liðugt máli, hvernin stendur þannin þú, þú skalt endurleika nú.

48. Indriða tal var: ekki skal nú leika, ei að manna eðli þú, orkar þannin leika nú.

49. Guðs þíns háa, hjálpin má því valda, trúa á hann jeg vil fá, almátt sjá fyrst þennan má.

50. Heiðna manna, heimska bannar gæði, Guð er annar enginn til, jeg það sanna nú og skil.

51. Höldar knáir hætta fá svo leiki, lofar háan himnasmið, hilmir þá og kætist við.

52. Heilög fræði, fúsum klæða viði, sagði bæði og sýnir þá, sönn stórræði djúp og há.

53. Indriði skírist og hans dýru þegnar, varð hirðmaður vísirs þá, vopnaglaður tírinn sá.

54. Fylgdi síðan sjóli skíða baldur, út á víða ála brú, áttu stríð fyrir hendi nú.

55. Skömmu síðar, Svoldarhríðin mikla, yfir lýð og öðling þann, með ógnar stríði ganga vann.

56. Indriði þá á Ormi hjá var sjóla, oddaþrá nær ólmust stóð, ótal nánm billti' í flóð.

57. Móti honum húns á grana langa, eggjum vanur átti stjá, Illhugi bani Talgdar sá.

58. Mestur þá var metinn sá af hinum, mættust knáir kappar þar, kváðu bláir tirfingar.

59. Einnig mest í minni festist þjóða, þar sem hristu hetjurnar, hlífar lestu blóðugar.

60. En um síðir ógnar stríði meður Illhugi líður æfitjón, eggin sníður hjarnar frón.

61. Indriði hrósa átti ljósum sigri, blóðs við ósa megna má, mestan kjósa heiður þá.

62. En sú langa ættartanga rimma, hlaut að ganga Ólaf á, ýmsir fanga dauða þá.

63. Þar Indriði í þungum friðar brotum, mæði við og mögnuð sár, mátti liðinn verða nár.
64. Ólafur framur, um það sama leyti, fleygjast nam í svalan sjá, síðan gram ei finna má.

---

65. Hnígur þannin helztu manna snilli, enda dægur hittir hver, hversu frægur sem hann er.
66. Líkt og boði bolginn voðadrambi, brottnar kletta brúnum á, af baki detta hreystin má.
67. Að sínum enda sjerhvað venda hlýtur, leirinn brotnar, lífið þver, listin þrotnar manna hver.
68. Eikin háa, eins og stráið veika, lúta má að lokum sín, líka smáu kvæðin mín.

---

